# LEIÐARVÍSIR

til að spila á langspil og

til að læra

# S Á L M A L Ö G

eptir nótum,

og

# NÓTUR með BÓKSTÖFUM

til

allra sálmalaga, sem eru í messusöngsbók vorri,

og þaraðauki til nokkurra fleiri

SÁLMALAGA,

handa unglingum og viðvaningum.

Samið hefir

**Ari Sæmundsen**

umboðsmaður.



---

**Akureyri.**

Prentaður í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, af H. Helgasyni.

1 8 5 5.

Íslands ágætasta og langmesta

Söngfræðingi

Herra Organista

**Pètri Gudjohnsen**

tileinkast

þessi litli ritlingur

virðingarfyllst

af

**Höfundinum.**

# I.

## Leiðarvísir til að þekkja nótur og gèta spilað eptir þeim á langspil.

Það er mælt og vissulega með fullum sannindum, að þegar hinn lærði skóli — látínuskólinn — var á Hólum í Hjaltadal, hafi skólapiltum verið þar kènnt að syngja messusöngslög eptir nótum í grallaranum, eður verið kènndur gamminn — raddstíginn — aptan við hann, svo þeir fengju þekkt nóturnar og tónbilin (intervalla) eptir gammanum, Af þessu flaut, að margir þeirra, sem urðu prestar, en höfðu notið áður slíkrar söngkènnslu, er hèr ræðir um, hèldu við reglulegum söng í kirkjunum, eður jafnvel að sumir þeirra endurbættu hann þar, sem þess var þörf; gjörðu það sjálfsagt einkum þeir, er, hvað röddina snerti, voru öðrum fremur færir um, að láta á sèr bera, þegar margir sungu; með því móti hèldust messusöngslögin við annaðhvort rètt, eins og þau eru nótusett í gröllurunum — eptir öðrum nótum varð ekki farið — eða þá að minnsta kosti mjög lítið afbökuð, og þannig voru þau jafnvel sungin af alþýðu bæði í kirkjum og heimahúsum. Og það, sem hèr er mælt um söngkènnslu í Hólaskóla og hennar útbreizlu þaðan meðal alþýðu, ætla eg einnig hafa átt sèr stað hvað þá snerti, er skrifuðust út úr Skálholtsskóla. En frá því að skólinn var fluttur til Reykjavíkur í fyrra sinnið og þangaðtil eptir það hann var þangað kominn nú fyrir nokkrum árum, ætla eg að ekkert hafi verið kènnt í söng fyrri enn herra organisti P. Gudjohnsen tók að gjöra það. Enda var þá orðin þörf á söngkènnslu,

þareð allmörg sálmalög, er eg heyrði og vandist við á æskuárum mínum og sem þá munu hafa verið sungin sum öldungis eins og þau eru nótusett í gömlu gröllurunum og sum nálægt því, hafa með tímalengdinni afbakast, svo nú eru nokkur lög sungin mjög skakkt, ekki einungis af alþýðu í heimahúsum, heldur einnig af sjálfum prestunum í kirkjunum, og það jafnvel þó þeir sèu fullgóðir raddmenn. Þetta er ekkert tiltökumál og getur með engu móti verið þeim eða söngsmekk þeirra til niðrunar á nokkurn hátt, fyrst þeim hafði aldrei verið kènnt að þekkja nótur eða þeirra gildi; því víst er um það, að allir þeir prestar, og eru þeir margir, sem eg hefi átt tal við um sálmalög, en sem hafa ekki kunnað á nótur, hafa bæði fundið, að í kirkjum þeirra sè sungið langt miður enn skyldi, og jafnframt, að þeir væru ekki sjálfir færir um að endurbæta sönginn, þó þeir fegnir vildu. Auk þessa hafa nokkrir prestar borið það fyrir, sem í alla staði er og satt, að þó þeir kynnu að syngja sum lög rètt, og reyndu til að gjöra það, þá færu kórsöngvararnir, sem ekki kynnu þau líka, ekki eptir því, heldur syngju þeir eins og þeir hefðu vanist; þó hefi eg ekki með jöfnuði haft yfir því að kvarta, að menn vildu ekki laga lagið eptir þeim, er þeir hafa ætlað að kynni meira í því enn sjálfir þeir; því hafi eg, og er eg þó enginn raddmaður, byrjað sálma og vers í kirkju, hafa kórsöngvarar optastnær farið eptir mínu lagi, svo sem þeir hafa getað. En það er enginn hægðarleikur að nema lag af öðrum, svo það verði á hverri nótu öldungis eins og hann syngur það, þegar sá, er nema vill, kann ekkert á nótur, og hinn, sem kennir, verður að gjöra það einungis með röddu sinni söngtólslaust; því það er harla torveldt að komast í fullan skilning um nótnagildi eða tónbilin, nema með hjálp einhvers söngtóls, sem rètt er nótusett og hefur nógu marga tóna.

Eg hefi heyrt marga spila á langspil, sem hafa gjört það yfrið lipurt, en tónarnir hafa þó einatt verið ógreinilegir og opt rètt eins og utan við lagið, svo það hefir varla orðið þekkt, og þetta jafnvel þó langspilið hafi verið nokkurnveginn rètt nótusett og verið á því sæti fyrir hálftóna; hefur skortur á

nótnaþekkingunni valdið skjátlun þeirri. Eg hefi þarámóti heyrt suma menn spila sönglög rètt á langspil; en þeir hinir sömu hafa þá líka verið komnir í skilning um nótnagildi og tónbil.

Eptir það að herra organisti Gudjohnsen tók að kènna söng í Reykjavík, og jafnvel nokkrum árum áður, hafa ýmsir menn hèr í sveitum látið í ljósi löngun sína til að öðlast þekkingu á nótum til sálmalaga og til að komast uppá að syngja þau rètt eptir þeim. Jafnframt hafa menn talað um það, hvernig þeir mundi gèta með hægasta móti öðlast þessa þekkingu án reglulegrar kènnslu af öðrum, og hafa flestir þá haldið, að best væri að fá sèr rètt nótusett langspil, á hvert að ná mætti hæglega sèrhverjum tón, er kèmur fyrir í sálmalögum. Um þetta hefur einstöku maður átt tal við mig. Hefi eg þá að vísu látið í ljósi, að ómissandi væri að hafa slíkt langspil til að spila lögin á, en jafnframt gètið þess, að hver sá, sem ætlaði að kènna sèr sálmalög eptir langspili, yrði á undan að vita: 1., hvað hver nóta heiti, 2., hvar hana væri að finna á nótnastrengjum eptir þeim eður þeim sönglykli, og 3., hvar sæti hennar væri á nótnafletinum á langspilinu; og hafa menn fallist á þetta.

það má nú að vísu mála á langspilið nafn sèrhverrar nótu útundan depli þeim á því, sem táknar hana, og er reyndar viðvaningnum ómissandi, að það sè gjört; því hafi hann þá eitthvert lag fyrir sèr með nöfnum nótnanna eður bókstöfum, gètur hann bráðum komist uppá að spila það eptir stöfunum og lært það jafnóðum; en samt sem áður gèta viðvaningar þó ekkert lag spilað eptir almennum nótum, á meðan þeir þekkja ei nöfn þeirra og gildi eptir sætum og myndum þeirra á nótnastrengjum í bókum; og ekki leiðrètt, þó nafn einhverrar nótu væri rángt skráð. Viðvaningurinn veit t. a. m. hvar nótan, sem g er kölluð, er á langspilinu; en hvar sæti hennar er á nótnastreng, það veit hann ekki, á meðan hann hefir ekki lært raddstigann þar.

Eg ætla þess vegna, að þeir, sem vilja læra að spila og syngja sálmalög eptir nótum, eigi að byrja á því, að kynna sèr vel raddstigann, sem nær yfir þau, þegar þau eru sungin einraddað, er eg svo nefni, það er: þegar lagið (P r i m a e n, sem

kölluð er) er sungið blátt áfram eptir nótum, án þess að fleirraddaður söngur sè viðhafður, sem að minni hyggju verður trauðlega kènndur með langspilum, þó þrír eða fjórir æfðir spiluðu í senn, vegna þess, að hvað vel sem langspil eru nótusett, verður torveldt, og ef til vill ómögulegt, að ná á þau svo djúpum eða dymmum tónum, sem þriðja og fjórða rödd útheimtir.

Eg ætla nú hèr á eptir að leitast við að sýna þeim af yður, lesarar góðir! sem þekkja annaðhvort lítið eður ekkert í nótum, en girnast að öðlast þá þekkingu, aðferð þá, er eg hygg að sè einhver hin auðveldasta og ljósasta til að ná þekkingu svo nægi að eins til þess að læra sálmalög eptir þeim með hjálp langspils. Set eg þá fyrst hèr fyrir neðan raddstiga þann, er sýnir alla þá heiltóna, er koma fyrir í söng, nefnist hann einfaldur raddstigi (*diatonisk scala*) — þó er þessi raddstigi sjálfur ekki lengri eða meira enn 7 fyrstu nóturnar á nótnastrengnum; hinum 5 nótum fyrir framan þverstrikið til hægri handar hefi eg bætt við til þess, að strengur þessi beri með sèr alla þá heiltóna, er á kann að þurfa að halda í sálmalögum. — Framanvið á strengnum er mynd sú, er nefnist G-lykill, og nafn hverrar nótu er rètt upp undan henni.

þessi raddstigi eða nótnastrengur er þannig:




Lykillinn framanvið gèfur til kynna, að nótan, sem er rètt útundan miðjum bugnum, sem er til hægri handar á honum, eður sem að er á öðru striki á strengnum neðan frá, sè og heiti g, og þessvegna kallast hann G-lykill; flýtur af þessu, að nótan þar fyrir ofan heitir a, eptir því, sem nóturnar neðanfrá og uppeptir eru nefndar, en fyrir neðan f. Væri þar á mót enginn sönglykill, þá væri ómögulegt að ákveða nafn eður gildi nokkurrar nótu á strengnum (nótnafletinum), einkum þareð tveir aðrir lyklar eiga sèr stað í söng, annar er C-lykillinn, er hann lagaður einsog 3 (seta í svabakksletri) og

stendur á nezta striki í strengnum; heitir þá nótan á því striki: $\overline{c}$. þessi lykill er við nótusettu sálmalögin í messusöngsbókinni; er þá $\overline{g}$ á miðstriki. Hinn lykillinn kallast F-lykill; er hann í grallaranum, lítur svona út Ə: og stendur optast á öðru striki neðan frá, og táknar, að útundan honum sè nótan $\overline{f}$ eður má skè $\overline{fis}$ (sjá um það nótunafn seinna); líka snýr greint merki þar þannig: € og heitir C-lykill og táknar $\overline{\overline{c}}$. Gildi hverrar nótu í tilliti til þess, hvað hátt eða lágt að eigi að syngja hana, fer einungis eptir því, hvar höfuðið á henni á sèr sæti, en alls ekkert eptir halanum eða hvernig hann snýr.

Litla línan, sem er yfirum nótuna $\overline{c}$ (lægstu nótu hèr) má heita aukalína, og þýðir hún ekki annað enn það, að ef bætt væri 6. línu við strenginn, þá stæði nefnd nóta á henni; $\overline{d}$ stendur þarámót ofar, en þó undir neztu línu, og því er engin aukalína yfirum þá nótu. Eptir þessu standa nóturnar $\overline{c}$, $\overline{e}$, $\overline{g}$, $\overline{h}$, $\overline{\overline{d}}$ og $\overline{\overline{f}}$ á strikum, en á milli þeirra $\overline{d}$, $\overline{f}$, $\overline{a}$, $\overline{\overline{c}}$, $\overline{\overline{e}}$ og $\overline{\overline{g}}$. Væri nótan $\overline{\overline{a}}$ líka á strengnum, þá væri yfirum hana aukalína, einsog er yfirum $\overline{c}$-nótuna.

Nú er að gèta þess, að 7 fyrstu nóturnar á strengnum hèr að framan heita raddstigi — einsog áður segir — eru það nóturnar $\overline{c}$ $\overline{d}$ $\overline{e}$ $\overline{f}$ $\overline{g}$ $\overline{a}$ $\overline{h}$, og á að rèttu lagi að setja eitt strik yfir hverja af nótum þessum, — einsog hèr er gjört — þegar þær eru ritaðar með bókstöfum, því þessi tónaröð er kölluð einstrikuð áttund, og er þó reyndar þá fyrst komin áttundin, þegar bætt er 8. nótu við fyrir ofan $\overline{h}$-ið; verður sú nóta c með tveimur strikum yfir, og kallast hún almennt efra c, en hún er í raun rèttri lægsta nóta í efri áttund (Octav), er nefnist tvístrikuð áttund, og eru hèr á nótnastrengnum að eins nóturnar c, d, e, f og g teknar af henni, þessari áttund. Fleiri heiltóna þarf

ekki til sálmalaga; því einsog ekkert lag á að fara ofanfyrir einstrikað c, eins þarf ekkert þeirra að syngjast hærra enn á tvístrikuðu g-i; enda veitir flestum fullorðnum karlmönnum, örðugt að syngja hærra; en unglingum og kvennfólki veitir það þarámót hægt [1].

Þó maður þekki nú allar nótur og alla tóna í hinum einfalda raddstiga, einsog þeir koma fyrir í sálmalögum, og viti tónbilin á milli þeirra allra, gètur maður samt ekki lært nema einstaka sálmalag eptir þessum nótum, vegna þess, að það eru að eins fá sálmalög, sem ekki útheimta á vissum atkvæðum það, sem kallað er hálftónar (innskotstónar), eigi þau að verða fögur og þægileg. Að vísu má komast hjá hálftónum í sumum lögum með því móti, að byrja þau á söngtólinu á einhverri vissri nótu annari enn til er vísað; en bæði er það, að slíkur flutningur er ekki meðfæri nema þeirra,, sem vel þekkja öll tónbilin í hinum einfalda raddstiga, og þó ei síður í þeim stiga, er nefnist hinn blandaði raddstigi (*cromatisk scala*), en það er þessi stigi, sem sýnir bæði heiltóna og hálftóna, og verður rædt um hann hèr á eptir; og líka eru flest lög reyndar þægilegust, þegar þau eru spiluð eða sungin hvorki hærra nè lægra, enn lagsmiðurinn (*componisten*) hefir vísað til með nótunum.

Vegna þess, að Akureyrar prentsmiðjan á engar nótur, þá gèt eg ekki sýnt með nótum, hvernig hinn blandaði raddstigi lítur út; því að láta smíða mynd af honum, einsog eg hefi látið gjöra af hinum óblandaða, þykir mèr of kostnaðarsamt, auk þess, sem það þykir ærið vandasamt smíði. Eg ætla þessvegna að láta mèr nægja að lýsa blandaða raddstiganum svo vel, sem mèr tekst, og draga upp langspilsstokk

---

[1]) Vegna þess að Akureyrar prentsmiðjan er yfrið fátæk af línum þeim, sem á þarf að halda til að tákna með hverja nótu í báðum áttundum — þeirri einstrikuðu og tvístrikuðu — þá læt eg hèr eptir nægja, að hafa að eins eitt strik yfir hverri þeirri nótu, sem á heima í tvístrikaðri áttund, en þarámóti ekkert strik yfir þeim nótum, sem eru í hinni einstrikuðu; — og vona eg, að þetta valdi ekki misskilningi.

með nótnafleti á fyrir heil- og hálf-tóna alla, sem koma fyrir í sálmalögum, þegar þau eru sungin einraddað.

Hinn blandaði raddstigi er með tvennu móti, annaðhvort með ♯ — sem eg vil kalla kross —. eða með b fyrir framan nótur. Sú nóta, sem krossinn er fyrir framan, á að syngjast hálfu hærra enn hún er annars sungin, það er: miðt á milli hennar eigin tóns, (þegar enginn er kross fyrir framan hana) og þess tóns, sem næsta nóta þar fyrir ofan hefur í raddstiganum; svo þegar kross er fyrir framan t. a. m. : c, á að spila það og syngja hèrumbil miðt á milli c og d, hvert það er í neðri eða efri áttund; er þá nafnið á c-inu lengt um atkvæðið is, það er: c heitir þá cis. Sè kross fyrir framan d, heitir nótan dis; fyrir framan f, fis; framan g, gis; og fyrir framan a, ais, og þessar nótur eru nefndar hálftónar, og hljóðin, sem þær gèfa frá sèr á nótnastrengnum, eins. Blandaði raddstiginn með kross fyrir framan nóturnar 'er þá þannig með bókstöfum: c cis d dis e f fis g gis a ais h, allt eins heita þær í hærri áttund, en krossinn heitir hækkunarmerki. Og verð eg nú að biðja yður, lesarar góðir! sem eruð ókunnugir í söngfræðinni, að bera yður að gjöra yður skiljanlegan þennan raddstiga, þó hann sè ekki málaður upp með nótnamyndum, og mun yður vel takast það, þegar þèr farið að virða fyrir yður langspilsstrenginn, sem hèr sjest seinna uppdreginn með nótnamerkjunum og nöfnunum við. En þèr munuð nú, ef til vill, spyrja: vegna hvers enginn hálftónn sè á milli e og f. — Hann er ekki heldur neinn á milli h og c. — það kèmur til af því, að tónbilin eður raddhæðarmunurinn er ekki jafn milli allra heiltóna; en mismunur sá gètur ekki orðið sýndur á nótnastrengjum. Eg ætla nú að taka hèr fyrir mig, að skrifa upp með stöfum (nótnanöfnum) einfalda raddstigan, sem hèr stendur á 8. blaðsíðu, með tónbilunum, hèrumbil einsog þau eru sín á milli; og er hann þá svona:

| Sjálfur raddstiginn. | Hluti af efri áttund. |
| --- | --- |
| c — d — e f — g — a — h | $\bar{c}$ — $\bar{d}$ — $\bar{e}$ $\bar{f}$ — $\bar{g}$ |

Af þessu sjest, að á milli c, d og e, f, g, a og h sèu stór

bil, og því þarf hálftóna þar á milli, og þýða þankastrikin, að þeir eigi sèr þar sæti; en að á milli e og f og h og c sèu þarámót lítil bil, þarf því engum hálftónum að skjóta þar inn á milli.

En — nú er að minnast á blandaða raddstigan, þegar b er fyrir framan nóturnar. Þetta merki (b-ið) á sjer ekki eða þarf ekki að eiga sèr stað í sálmasöng nema fyrir framan d, e, a og h. Þegar nú b, sem í söng er kallað lækkunarmerki, stendur fyrir framan einhverja nótu, táknar það, að hún eigi að spilast og syngjast hálfu lægra enn gjört væri, ef þar stæði ekkert merki; þ. e. hún á, ef það er t. a. m. d-nótan, að syngjast miðt á milli d og c, eður á sama stað og cis, heitir hún þá des, e með b fyrir framan, spilast á dis staðnum, og heitir þá es, a á gis staðnum og nefnist þá as og h á ais staðnum og kallast þá b. Eg gjöri ekki ráð fyrir g-i ofanfyrir sig (ges), því það þarf aldrei að koma fyrir í sálmalögum.

**Mynd langspilsstokksins með nótnastreng og nótum.**




A merkir nótnastrenginn, og þýða þverstrikin á honum nóturnar; eru hálftónarnir látnir vera lítið eitt styttri enn þeir heilu, svosem til aðgreiningar. BB þýðir brúnirnar á langspilshliðunum; C er bilið, sem boginn er dreginn um, þegar spilað er, og er það hèr $\frac{1}{4}$ af lengd strengjarins, sem er þaninn yfir gaflana DD á langspilsstokknum, og á sá tónn, sem framkèmur, þegar boginn er dreginn þvert yfir strenginn á miðju bilinu C, og hvergi stuðt á hann, að vera hið lægra c. Langstrikið E er sú röð nótnalistans, sem snýr frá þeim, sem spilar, en einstaka þverstrikið þar hjá er endinn á listanum, sem er á lengd $\frac{3}{4}$ af strengjarlengdinni, og sú nóta, sem skyldi standa þar, væri þriðja c, en mjer þókti ekki þörf að setja fleiri nótur enn þegar er gjört.

Best fellur mèr, að langspilin sèu svo gjörð,

að lengdin milli gaflanna sè 1 alin, er þá lengdin frá gaflinum c til d $\frac{1}{9}$, frá c til e $\frac{1}{5}$, frá c til f $\frac{1}{4}$, frá c til g $\frac{1}{3}$, frá c til a $\frac{2}{5}$, frá c til h $\frac{7}{15}$, og frá c til $\bar{c}$ $\frac{1}{2}$ af allri strengjarlengdinni, en til $\bar{d}$ eiga af allri lengdinni frá c að vera $\frac{5}{9}$, til $\bar{e}$ $\frac{3}{5}$, til $\bar{f}$ $\frac{5}{8}$ og til $\bar{g}$ $\frac{2}{3}$; cis mun vera nálægt $\frac{1}{16}$, es nálægt $\frac{1}{6}$, fis nálægt $\frac{7}{24}$, gis nálægt $\frac{3}{8}$ og ais nálægt $\frac{7}{16}$ af strengjarlengdinni frá c. (Eg segi n á l æ g t, því eg vil þó ekki öldungis fullyrða það). Eptir þessum mælingum ætla eg að megi setja nótur á langspil, því þó hèr kunni einhverju að muna á hálftón á einstaka stað frá því rètta (sem eg hygg þó að varla sè), munu fáir heyra þann mismun, heldur munu lögin fullvel verða spiluð á nóturnar og lærð af þeim. En eg gèt þess jafnframt, að á langspilsmyndinni, sem hèr er sýnd, eru bilin á milli nótnanna enganveginn svo nákvæmt afmæld, sem vera þarf á langspili. Þessu nærst bið eg yður, lesarar góðir! að gæta þess, að bilið á milli c til d, er kallað tvíund (Secund) og af því það er stórt — því nú á að sleppa hálftóninum, sem er þar á milli — heitir d, — þegar c er haft fyrir undirstöðutón, einsog eg gjöri hèr, — eða hæðarmunurinn milli beggja þessara tóna: — tvíundin mikla, en frá c til des: tvíundir litla, því þar er bilið að eins lítið; frá c til e eru tvö heiltóna bil, það er: langt á milli beggja; kallast því c, d, e þríundin mikla (den store Terz), en c, d, es: þríundin litla (den lille Terz); c til f heitir fjórðund (Qvarte), c til g fimtund (Qvinto), c til a sexund (Sexto), c til h sjöund (Septime), og c til $\bar{c}$ áttund (Octave). Sè d tekið fyrir undirstöðutón, verður d e tvíundin mikla, en d es tvíundin litla, d e f þríundin litla, en d e fis þríundin mikla o. s. frv., og þá verður d og d, fyrir ofan eða neðan áttund.

## Að þekkja að d ú r og m o l l.

Eg ætla, að sumir af lesendum þessarar ritgjörðar, sem þó hafa áður heyrt nefnt eða heyrt talað um d ú r og m o l l í söng, þekki ekki mismuninn á þessum sönglagategundum, þó þeir sjái nótur til sálmalaga, og þekki þær sjálfar. Þarámóti þekkja sumir þennan mismun. Hinum til leiðarvísirs gèt eg

þess: að í dúr er hinn óblandaði, en í moll i hinn blandaði, raddstigi frá nótunni c að reikna. Sjálft orðið: dúr er hálflatinskt og þýðir harða hljóða- eða tóna-setningu, en moll, sem einnig er hálflatinskt orð, þýðir lina hljóðasetningu, í söngfræðilegum skilningi [1].

Seinasta nótan eða seinasti tónninn í hverju lagi heitir þess undirstöðutónn (Dominant). Sè nú stórt bil frá undirstöðutóninum til næstu nótu fyrir ofan hann og aptur frá henni uppá þriðju nótu, svo að þær 3 nótur sè þríundin mikla, þá er kallað að lagið sè í dúr. Það hefur þá harða hljóðasetnsetningu. En sè lítið tónbil annaðhvert til næstu nótu fyrir ofan undirstöðutóninn, eður þó það bil sè stórt, þá sè þó frá henni lítið bil uppá þriðju nótu, svo þær þrjár nótur sèu þríundin litla; þá kallast að lagið sè í molli. Það hefur þá í sèr lina hljóðasetningu. Þannig er þríundin mikla uppeptir frá undirstöðutóninum, einkunn dúranna, en þríundin litla: mollanna. Þessvegna þegar maður vill vita hvort eitthvert lag sè í dúr eða í molli, en þekkir að öðruleiti nótur og tónbil, — það verður maður að vera búinn áður að læra — þarf ekkert annað enn að gæta að því, er nú er sagt; t. d.: eg vil vita hvort lagið: Hver veit hvað fjærri' er æfi endi, er dúr eða moll; sje eg þá, að það endar á $\overline{c}$; þá er c undirstöðutónninn í laginu. Nú gái eg að, hvort þetta lag hefir d og e, eður hvert önnur hver þessara nótna er hálftónn, des eða es, og sje eg þá, að það er ekki; heldur hefur lagið þríundina miklu: c, d, e; lagið er því dúr. Er lagið: Sæti Jesú! sjá oss hèr, moll? Svar: nei, því undirstöðutónninn er g og í laginu eru nóturnar a og h, en hvorki as nè b. Lagið er því dúr. Einhver spyr: er lagið: Hver sèr fast heldur, í dúr? Eg svara: já, því eg sje að undirstöðutónninn — seinasta nótan — er a, og lagið hefir h og $\overline{\text{cis}}$, sem er þríundin mikla, nefnil.: a, h, $\overline{\text{cis}}$. Þarámót sje eg, að lagið: Skaparinn, stjarna, herra hreinn, er moll; það endar að vísu einsog hitt

[1]) Orðið dúr er dregið af latinska orðinu: durus, sem þýðir harður, en moll af latinsku orði mollis, er merkir: linur.

á a, en það hefir ekki $\overline{cis}$, heldur $\overline{c}$, en a, h, $\overline{c}$ er þríundin litla. Þetta er nú allur vandinn við að þekkja dúr og moll hvern frá öðrum.

Sèrhver dúr er nefndur eptir sínum undirstöðutóni. t. a. m. C-dúr, þegar lagið endar á c, D-dúr, endi það á d, o. s. frv.; sama er að segja um mollana. Þannig er sagt: að lagið: Sæti Jesú! sjá oss hèr, sè í G-dúr, en lagið: Skaparinn, stjarna, herra hreinn, í A-molli.

Nú skal sýna á áttundinni tónaröðina, sem á sèr stað frá undirstöðutóninum í nokkrum lögum í dúr, sem algengust eru á sálmum, og sýna tonbilin um leið:

| | | |
|---|---|---|
| C-dúr: | c — d — e | f — g — a — h $\overline{c}$ |
| D-dúr: | d — e — fis | g — a — h — $\overline{cis}$ $\overline{d}$ |
| F-dúr: | f — g — a | b — $\overline{c}$ — $\overline{d}$ — $\overline{e}$ $\overline{f}$ |
| G-dúr: | g — a — h | $\overline{c}$ — $\overline{d}$ — $\overline{e}$ — $\overline{fis}$ $\overline{g}$ |
| A-dúr: | a — h — $\overline{cis}$ | $\overline{d}$ — $\overline{e}$ — $\overline{fis}$ — $\overline{gis}$ $\overline{a}$ |

Af þessu sjest, að í C-dúr er enginn hálftónn, heldur hinn óblandaði raddstigi, í D-dúr er cis og fis, í F-dúr: b, í G-dúr: fis, og í A-dúr: cis, fis og gis, og líka er auðsært af þessu, að hægt er að flytja sèrhvert lag, sem er í dúr, í hvern þann dúr, sem maður vill, því hlutföllin eða tónbilin eru ætíð hin sömu. Það ber opt við, að einhver sá hálftónn, sem reyndar á sèr ekki stað í þeim dúr, sem lagið er í, kemur þar þó fyrir á einstaka atkvæði, kalla eg það viðauka hálftón, og er hann settur til þess, að lagið verði mýkra og þægilegra þar, sem hann er settur, heldurenn ef reglulegi dúrtónninn væri þar. Þetta á sèr stað t. d. í laginu: Í dag eitt blessað barnið er. Lagið er í G-dúr, og þó kemur þar einusinni fyrir $\overline{cis}$, sem er einúngis til hljóðfegurðar, því væri þar $\overline{c}$, yrði lagið óviðfeldnara á því atkvæði. Eg hefi sjeð lagið: Hvað mundi vera hjarta mitt, á nótum í G-dúr eptir organista herra Gudjohnsen, og kemur þar opt fyrir cis, sem fer allstaðar miklu betur, heldur enn ef þar væri c; eins hefur hann í laginu: Allteins og blómstrið eina — sem hann

setur í *A-dúr*, einsog því lagi er eðlilegast — dis á tveimur stöðum, sem fer miklu betur, einsog við var að búast frá honum, heldur enn ef þar væri d beint eptir dúrtegundinni.

Sömu tóna, sem *dúrarnir* hafa uppeptir, hafa þeir líka ofaneptir. Tökum til dæmis radd- eða tón-stigan upp og niður í

G-dúr:

g — a — h c — d — e — fis g fis — e — d — c h — a — g.

Nú er að minnast á *mollstigan*. Hann er öðruvisi ofaneptir enn hann er uppeptir.

*Molltegundirnar* eru 12 alls, og það eru *dúrtegundirnar* líka; en í sálmasöng gètur verið, að komi fyrir 6 *molltegundir*, og skal nú greina hverjar þær eru og jafnframt sýna tónstiga sèrhverrar útaf fyrir sig bæði uppeptir og ofaneptir.

1., Tónstiginn í *C-molli*:

*Uppeptir* — *Ofaneptir*.

c — d es — f — g — a — h c — b — as g — f — es d — c.

2., Tónstiginn í *D-molli*:

d — e f — g — a — h — cis d — c — b a — g — f e — d.

3., Tónstiginn í *E-molli*:

e — fis g — a — h — cis — dis e — d — c h — a — g fis — e.

4., Tónstiginn í *F-molli*:

f — g as — b — c — d — e f — es — des c — b — as g — f.

5., Tónstiginn í *G-molli*:

g — a b — c — d — e — fis g — f — es d — c — b a — g.

6., Tónstiginn í *A-molli*:

a — h c — d — e — fis — gis a — g — f e — d — c h — a.

Ætíð fer hálftónafjöldinn í hverjum *molli* eptir því, hvað margir hálftónar að eru í tónstiganum *ofaneptir*, en alls ekki uppeptir, og eru þeir á nótnastrengjum í bókum táknaðir framan við nóturnar; þannig eru, þegar lagið er *C-moll*, þrjú b sett á strenginn fyrir framan nóturnar, þar

af eitt í rúmið fyrir neðan miðstrikið, annað á það sjálft, og hið þriðja í rúmið fyrir neðan efsta strik; standa þannig greind þrjú b eður lækkunarmerki fyrir framan sæti nótnanna: a h og e, og heita þær þá as, b og es; það er: a, h og e, bæði efra og neðra[1], eiga að syngjast á nefndum hálftónum; enda koma einmiðt þessir hálftónar fyrir í söngstiganum ofaneptir í C-molli.

Opt ber svo við, að þó forteikn (danir kalla kross og b Fortegn) standi fyrir framan lag, t. a. m. b fyrir framan h, þá kèmur h engu að síður fyrir í laginu á einstaka atkvæði; en að svo sè, er þá við nótuna gèfið til kynna með teikninu ♮, er danir kalla Ophævetegn, máskè það mætti heita apturköllunarmerki?

Eptir því, sem sýnt er hèr að framan, er í C-molli b fyrir framan a, h og e; í D-molli fyrir framan h; í F-molli fyrir framan a, h, d og e, og í G-molli fyrir framan h og e; en í E-molli er kross fyrir framan f. A-moll hefir — til að mynda einsog C-dúr — ekkert hálftónsmerki (forteikn).

Allir mollar, sem nú eru taldir, eru hreinir eða rèttir mollar. En — ekki eru öll sálmalög í hreinum molli, þó í molli sèu. Það er til tóntegund sú, sem kölluð er dórisk, eður dóriskur moll, og mun hún vera kènnd við þjóð þá suður í löndum, er tíðkað mun hafa þá tónasetningu, sem einkènnir þessa tóntegund frá hreina mollinum.

Radd- eður tón-stiginn í dóriskum molli upp og ofan er þannig:

---

[1]) Eins á neðra e að vera es, þó b standi að eins framanvið hið efra e, og sama er að segja um öll forteikn, er standa framanvið nóturnar í efri áttund, t. a. m. kross fyrir framan f eða g; því þá á líka neðra f að vera fis, eða neðra g: gis. Í Aug. Dan. Hegers Melodiebog frá 1822 er hálftónsmerkið að vísu sett við hverja einstaka nótu, þar sem hálftónn á að vera, en ekki framanvið lagið; og ætla eg það sè gjört til þess, að vinvaningum yfirsjáist síður að spila og syngja rètt eptir nótunum; þareð þeim kynni að gleymast á stundum að taka hálftónana, þegar merkið þeirra stendur að eins framanvið lagið, en ekki við hverja sèrstaka nótu, er á að vera hálftónn.

í C-molli:

c — d es — f — g — a b — $\bar{c}$ — b a — g — f — es d — c

eður í D-molli:

d — e f — g — a — h $\bar{c}$ — $\bar{d}$ — $\bar{c}$ h — a — g — f e — d

það eru nefnilega sömu nóturnar ofaneptir einsog uppeptir, og þannig er það höfuðeinkunn þessarar tóntegundar, að eins uppeptir sem ofaneptir er stórt bil milli undirstöðutónsins og næsta tóns fyrir neðan hann. Með þessari tónasetningu eru máskè sum af sálmalögum vorum, og eru flest slík lög alvarleg og sjaldan rètt viðfeldin eða yndisleg, þegar þau eru sungin einrödduð; en láta miklu betur og þykja flestum íslenzkum söngmönnum viðkunnanlegri og fegri, þegar þau eru sungin í dúr.

Þá er önnur tóntegund, sem kallast frygiskur moll, og veit eg ekki betur enn að tónstiginn í þeim molli sè að öllu einsog í hinum dóriska, að því einu undanteknu, að þar sem bæði í honum og í hreinum molli er eitt stórt og eitt lítið bil, eður litla þríundin, er í frygiska mollinum eitt lítið og eitt stórt tónbil frá undirstöðutóninum, svo að þegar til að mynda lagið er E-moll, þá er einkunnin þess frygiska, að hann hefir litlu þríundina: e f — g, en ekki e — fis g eins og hinir mollarnir.

Í frygiskum molli eru fáein sálmalög vor, og má ekki annað segja enn að sum þeirra sèu rètt þægileg; sum þarámót láta betur, sèu þau sungin í hreinum molli eða jafnvel í dúr.

---

## „Takt."

Svo nefnist í söngfræðinni víst tímabil á meðan verið er að spila eður syngja tiltekin nótna- eður og atkvæða-fjölda í sèrhverju lagi. Sèrhvert slíkt tímabil er á nótnastrengjunum afmarkað með strikum yfir þá þvera þannig: | | | | og á að ganga jafnlangur tími til söngs á hverju slíku bili eða kabla, hvert ein eða fleiri nótur eru milli hverra þverstrika, og er þá auðskilið, að ef í einum kablanum er 1 nóta, en í öðrum tvær, þá megi ekki draga hverja þeirra tveggja leng-

ur í söngnum enn helft þess tíma, sem nótan var dregin, þar sem hún var ekki nema ein á milli tveggja þverstrika; og það eru nú þessir kablar á nótnastrengjunum, sem kallast „taktar", einsog líka sjálf tímabilin, sem nóturnar milli slíkra þverstrika tákna að útheimtist til að spila eða syngja þessa kabla, heita taktar. Eg ætla hèreptir í þessari ritgjörð að kalla taktinn sönglið, þar sem hann táknar þverstrikin og nótnafjöldan milli þeirra; en tíman, sem þarf til að syngja hverja nótu eður og hvern sönglið, kalla eg söngtíma.

Í flestum sálmalögum er í hverjum sönglið annaðhvort ein nóta, er það nóta með opnu höfði, einsog þær á nótnastrengnum bls. 8 hèr að framan, nema hvað hún er halalaus; kallast hún þá heilnóta; eður að í söngliðnum eru 2 nótur, einnig með opnu höfði, en með hala, rètt einsog er á nýnefndum nótnastreng og kallast það hálfnótur, því þær jafngilda báðar einni heilnótu að söngtíma til; eður að í þriðja lagi eru í söngliðnum 4 nótur, með svörtu höfði og með hala, er kallast $\frac{1}{4}$ nótur, því ein heilnóta útheimtir jafnlangan söngtíma sem 4 slíkar. Í þeim sálmalögum, sem nótur verða sýndar til í þessum bæklingi, koma ekki tómar $\frac{1}{4}$ nótur fyrir í neinum sönglið, heldur á einstaka stað tvær, og verða þær þá ætíð báðar á einu aðkvæði og lítið samtengingarmerki á milli þeirra, og þá verður hálfnóta fyrir framan eða aptan þær í sama söngliðnum; þar sem einungis 2 nótur (tvö nótnanöfn) eru í sönglið í þessu riti og samtengingarmerki er á milli þeirra, þýðir það einnig, að þær heyri til báðar einu aðkvæði, sem er þá heill söngliður. En heilnótur allar skulu verða prentaðar með feitara (þykkra) letri enn aðrar nótur.

Þar sem stórt **C** stendur fyrir framan lagið, táknar það ætíð, að í hverjum sönglið sè að eins 1 heilnóta, eður hennar jafngildi af styttri nótum. Í einstöku sálmalögum er hver söngliður þrískiptur, er svo kallast; er þá 1 heilnóta og 1 hálfnóta í hverjum, eða þá 3 hálfnótur; og er þá ekki sett **C**, heldur **3** í tölu framanvið lagið, er táknar, að í því jafngildi hver söngliður $1\frac{1}{2}$ sönglið, þar sem **C** er fyrir framan, eður þremur hálfnótum; er í sumum nótnabókum sá söngliður einkènndur með

$\frac{3}{2}$; en það nægir að setja að eins teljarann. Að vísu gætu 3 táknað $\frac{3}{4}$, og jafngildti þá hver söngliður þremur fjórðu hlutum úr C-söngliðnum; en það er orðin venja, að láta allar sálmanótur vera annaðhvort heil- eða hálf-nótur, en ekki $\frac{1}{4}$ nótur, nema þar, sem 2 þurfa til eins aðkvæðis, er ei má syngjast á lengri tíma enn svari söngtíma einnar hálfnótu.

### Áherzlur í söng.

Þannig kalla eg það, er danir kalla „Nedslag". Þessar áherzlur eru í því innifaldar, að sèrhvert atkvæði, er svarar til fyrri hluta hvers eins sögliðar, á að spilast og syngjast harðara eða stífara — þó ekki lengur, ef nótan útheimtir það ekki — enn seinni hlutinn, og kallast af þessari orsök fyrri hlutinn í hverjum söngllið, hinn betri hluti hans, en seinni hlutinn hinn rírari, því hann á að syngjast linara enn hinn, eða áherzlulaust. Hafi lagið þrískipta söngliði, er áherzlan ætíð á 1. nótu, þó þrjár sèu í sönglið. Ekki má útaf því bregða, er nú er mælt, þó stuðlaföll í versum, er syngjast eiga, samsvari ekki niðurskipun söngliðanna, sem allt of opt á sèr stað í sálmum vorum, því er miður! því þó þeir sèu óskothendt orðtir, eru varla nema einstöku vers, sem rètt eru í stuðlaföllunum; og í messusöngsbók vorri eru þau í fyrstu 20 sálmunum að eins 3, eru það þessi: 1. og 13. vers í No. 2, og 1. vers í No. 15, en ekkert hinna að öllu leiti.

Standi stingur (púnktur) aptanvið nótu, þá á að halda tóninum á henni hálfu — ekki tvöfaldt — lengur enn ella. Þannig verður heilnóta með sting hjá jafnlöng að söngtíma til þremur hálfnótum, en hálfnóta þannig, þremur $\frac{1}{4}$ nótum.

Af þagnarmerkjum (Pauser), sem eiga sèr stað í söng, kèmur ekki fyrir nema ein tegund, þegar söngliðum er skipað niður einsog ráð er fyrir gjört hèr að framan; lítur það þannig út: ▬, situr á miðstriki nótnastrengsins og merkir, að þegja skuli í söngnum þar, sem það er, eins lengi og haldið er tóni á einni hálfnótu í laginu.

Merkið 𝄐, sem stendur hèr og hvar yfir nótnastrengjum, er ætíð uppyfir seinustu nótu í hverri hendingu, og þýð-

ir ekki annað enn að þar endi hendingin, þar megi draga tóninn lítið eitt meira enn annarstaðar á samsvarandi nótu að lengdinni til; en svo eiga þó allir söngvararnir að þagna til fulls, og allir í einu, þangaðtil forsöngvarinn, sem sjálfur á að halda tóninum áfram, þó lint, á meðan hinir anda, er búinn að byrja á næstu hendingu; en þá fyrst eiga allir að taka undir í einu hljóði, en enginn fyrri, og svo má forsöngvarinn fyrst þagna eða anda eptir þörfum.

Í þessum ritlingi kèmur hendingaskipta-merki ekki fyrir nokkurstaðar, að eg held, því nóturnar til sèrhverrar hendingar í hverju lagi verða látnar ráða í línu, nema ef vera skyldi á smáu stefjunum í laginu: Himna rós.

Til skilningsauka áhrærandi söngliði, áherzlur o. s. frv. set eg hèr fyrir neðan 2 sálmalög og vers undir nótunum; skal hið fyrra vera með almennum (tvískiptum) söngllið = C, hitt með þrískiptum = 3.

## 1. Allt einsog blómstrið eina.

A-dúr.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| C | a | e a | gis a | h-a gis | |
| | Allt | eins og | blómstrið | ein- a | |
| — | $\overline{cis}$ | h $\overline{cis}$ | $\overline{d}$ h | a | |
| | upp | vex á | slèttri | grund, | |
| | a | e a | gis a | h-a gis | |
| | fag- | urt með | frjófgun | hrein- a | |
| — | $\overline{cis}$ | h $\overline{cis}$ | $\overline{d}$ h | a | |
| | fyrst | um dags | morgun- | stund | |
| | h | $\overline{cis}$ a | $\overline{cis}$ $\overline{dis}$ | $\overline{e}$ | a |
| | á | snöggu | aug- a | bragð- | i |
| | $\overline{cis}$ | h a | gis a | h | |
| | af- | skorið | verð- ur | fljótt, | |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| a | $\overline{cis}$ $\overline{dis}$ | $\overline{e}$ a | **a** | gis |
| lit | og blöð | nið- ur | lagð- | i, |

| | | | |
|---|---|---|---|
| $\overline{cis}$ | h $\overline{cis}$ | $\overline{d}$ h | a |
| líf | mannlegt | endar | skjótt. |

þetta lag byrjar á rírari hluta söngliðar (er danir kalla Opslag), en endar á hinum betri. Yfir aðkvæðunum ein og hrein í tvístöfuorðunum í 1. og 3. hendingu eru 2 nótur h—a, eru það $\frac{1}{4}$ nótur og á betri hluta söngliðar. Í 1. hendingu eru áherzlur á aðkvæðunum: eins, blómstr og ein, og meiri áherzla þar á h-inu en a-inu, vegna þess að sönglíðurinn byrjar á h-inu, en hin aðkvæðin í þeirri hendingu eru áherzlulaus. Áður enn byrjuð er önnur og 4. hending á að þegja um hálfs söngliðar tíma. Nóturnar $\overline{c}$ og a á aðkvæðunum: bragð og lagð eru heilnótur, og gjörir hver þeirra heilan söngllið, einsog strikin sýna, er standa upp og ofan; sèrhver þeirra nótna innibindur þannig bæði betri og rírari hluta söngliðar.

## 2. Skaparinn stjarna, herra hreinn.

A-moll.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 3 | a | **g** a | **$\overline{c}$** $\overline{d}$ | **$\overline{c}$** h | **$\overline{c}$** |
| | Jes- | ú! þín | kristni | kýs þig | nú, |
| | h | **$\overline{d}$** h | **$\overline{c}$** h | **a** gis | **a** |
| | kong- | ur henn- | ar einn | heit- ir | þú; |
| | $\overline{c}$ | **h** a | **g** a | **h** a | **g** |
| | stjórn | þín henn- | i svo | hald- i | við, |
| | g | **a** h | **$\overline{c}$** h | **a** gis | **a** |
| | (að)himn- | eskum | ná- i | dýrðar | frið. |

Lagið endar hèr á **a**, sem er heilnóta og betri hluti söngliðar, og byrjar á a, sem er hálfnóta og rírari hluti hans; er

